# SAGA

# Scipions hins Afrikanska eðr mikla,

eptir **Plutarchus.**

Snúin á íslenzku

af

**Jóni** sýslumanni **Espólín.**

---

Kostnaðarmaðr:

Jón Borgfirðingr.



---

Akureyri 1858.

Prentuð í prentsmiðju norðr- og austrumdæmisins,
hjá Helga Helgasyni.

# Hér hefr Scipions sögu.

---

## I. kapítuli.

### Upphaf Scipions.

Cornelia hèt göfug ætt ok ágæt í Rómaborg, ok var einn af því kyni Publius Scipio ræðismaðr, ágætr maðr, ok stórfrægr at trúleik, hóglyndi, hreysti ok öllum kostum. Cnejus var bróðir hans, er ok var ágætr herstjóri, ok líkr honum at öllu

Synir Publius voru Scipionar tveir, Publius hinn yngri, er síðan var kallaðr hinn Afrikanski, ok þessi saga er af gjör, ok Scipio, er vann Asíu, ok kenndr var síðan við þat. Publius Cornelius hinn yngri var furðuliga vel skapi farinn ok viti borinn, ok sýndi kosti marga frá barnæsku; lèt faðir hans læra hann á allt herskapar atferli, ok hafði hann með sèr til herbúða 17 vetra gamlan, þann tíð er hófst hin önnur Pœna styrjöld, ok var þat skjótt, at hann fekk frægð mikla af öllum, fyrir reiðmanns atgjörfi, þol við vökur, ok alla herskapar eljan. Publius faðir hans var ræðismaðr, ok átti fyrstr reiðmannaliðs orustu við Hannibal á Ítalíu, var þar með honum Publius hinn yngri, sonr hans; hann var þá öllum mönnum vinsæll, ok gjörðist þegar furðu-efni mörgum þjóðum. Þeir börðust við Ticinus á, ok er sagt hann hafi þá komit föður

sínum til liðs, er hringr var nálega sleginn um hann, ok hann sár orðinn, ok frelsat hann. Publius hinn eldri átti herför á Spáni, ok vann þar margan sigr, ok framdi mörg afrek, en í einni orustu sótti hann þar jafnan fram sem mest var mannhætta, ok harðast við at eiga, þá fekk hann þat högg, er honum varð at bana. Bróðir hans Cnejus fèll fáum dögum síðar hreystilega í orustu. Hans son var Publius Cornelius Nasica ræðismaðr, ok hèldt sigrför ungr, var ok kallaðr hinn bezti maðr. Publius Scipio hinn yngri var einn í orustu við Cannas með öðrum mönnum, eptir fall föður síns, en þar fengu Rómverjar svo mikinn ósigr fyrir Hannibal, at lá við eyðingu ríki þeirra; var sá fyrir liði þeirra um daginn, sem miðr rèði ræðismanna, ok flýði, en Paulus Æmilius fèll við góðan orðstír. Hann var faðir Paulus, sem sigraði Perseus Macedona konung. 10 þúsundir Rómverja flýðu til Canusium, ok kusu þeir allir at yfirmönnum Appius hinn fagra, er verit hafði skömmu áðr húsameisari (Ædilis), ok Publius Scipio, ok var hann enn ungr, en þá sýndi hann hugprýði sína; höfðu margir ungir menn í ráði at yfirgefa Ítalíu, en hann kom á ráðstefnu þeirra, brá sverði og þröngdi þeim öllum til at vinna eið, at eigi skyldu þeir yfirgefa fóstrland sitt, ok var þó eigi álitlegt ráð Rómverja um þat mund.

## 2. kapítuli.

### Scipio fór til Spánar, ok vann nýju Karthago.

Svo er sagt, at þetta frægðarverk ok margar

aðrar drengilegar athafnir ok vitrleiki Scipions þegar á ungum aldri, voru efni til þess, at Rómverjar fengu honum völd ok forræði áðr en vant var, eða hann hafði lögaldr til, ok settu hann fyrir stórar sýslanir; var hann húsameistari, fyr en at lögum, þó at alþýðustjórar (tribuni) legðist í móti, því at fjölmenni dæmdi þat. Ok er faðir hans ok föðurbróðir, ágætir herstjórar, voru nú fallnir frá á Spáni, áttu Rómverjar at sjá fyrir því, at þangat væri sendr nokkur í þeirra stað, er sèrlegr frægðarmaðr væri; en með því at margir merkiligir herstjórar voru þá fallnir, fannst enginn sá er treystist at fara í svo torvelda ok háskasamlega herför. Var þá haldit höfðingjaþing til at skipa þann, er í ræðismanns stað væri, ok þögðu allir höfðingjar við því eyrindi, sem þá stóð á. Scipio hafði þá fjóra um tvítugt; hann gekk fram ok kvaðst vera fús at taka þá sýslan ok fara; ok er þvílík hreystiorð heyrðust af ungum manni, var eigi dvalit at taka undir, ok fast fylgt, svo at honum voru dæmd forráð á Spáni. En litlu síðar íhuguðu Rómverjar, í móti hvílíkum herstjórum Pœna, ok hvílíkum löndum hann ætti at vera, ok hafa forræði, ok skildu þá ekki hversu slíkt ofreflisverk mætti vera fært óþroskuðum manni, ok lítt reyndum, ok þóttust hafa orðit bráðlátir, ok skiptust mjök í huga, en Scipio, er hann vissi þat, stefndi þing, ok ræddi svo um aldr sinn ok um herför þá, er fyrir hendi var, at allir snerust til á at heyra, ok fengu af nýu mikit traust at vel mundi farnast sakir hugprýði hans hinnar miklu, ok annara kosta, er hann

bar mikit af öðrum mönnum. Hann var manna fríðastr sýnum, ok at allri sköpun ásjáligr, glaðlátligr mjök í bragði, svo at mjök hneigði hug manna til hans, harla var hann ok virðugligr í látbragði ok öllum háttum, því fylgdu svo miklar atgjörfisgáfur ok hermanns frægð, at óvíst þótti, hvort meira vann, ástsæld hans við hverja þjóð er hann fekkst við, eða frábær herskaparkunnátta. Almenningr hafði þar með átrúnað á því, at hann fór hvern dag, frá því hann tók upp fullorðins gjörfi, upp á Capitolium, ok gekk þar inn einn saman, ok ætluðu menn hann mundi nema þar nokkra leynda dóma í hofinu, sem Numa konungur Pompilius nam af Ægeriu dís forðum; var ok sagt at ormr hefði sèst í herbergi móður hans, opt áðr hann var borinn, sem sagt hafði verit um Alexander hinn mikla, ok er nú eigi farandi at slíku. En þar frá er at segja, er Publius Scipio fór úr Ítalíu með 10 þúsundir gönguliðs, ok 30 skipum, fimmtugsessum öllum, til Spánar, ok kom til kauptúna um fáa daga, setti her á land, ok fór landveg til Tarracona, þar stefndi hann þing, ok komu þangat sendimenn margir frá fèlagsborgum hans, tók hann þeim ástsamliga, ok fóru þeir heim með góðum eyrindum. Bjóst hann síðan undir herskapinn með hinni mestu stundan, ok þótti hagligast at auka hinum forna her, er Lucius Martius hafði varðveitt ágætliga þar í landinu, við sitt lið, því þá er þeir bræðr Scipionar fèllu, ok Rómverjar höfðu nær misst af Spáni, ok liðit var flúit, dró Lucius þessi Martius — Rómverskr riddari — saman þat er eptir var af her

hvorstveggja þeirra, ok sigraði með ólíkindum óvini þá, er þóttust hafa allt í höndum eptir fall þeirra bræðra, ok stóðst fyrir þremr herstjórum Pœna, með furðuligum hraustleik ok gætni. Var þetta lið í vetrarbúðum er Scipio kom, en nú hresstust hugir allra þeirra manna af góðri von, ok endrnýaðist minning þeirra bræðra; fögnuðu liðsmenn hinum unga manni, ok þóttust aldri fá fullskoðat hann; en hann lagði þeim lof til, er þeir örvæntu eigi Rómverjum gagns, ok hafði einkanliga Lucius Martius í virðingu, ok sýndi svo jafnan at hann öfundaði eigi frægð hans. En er vetr leið af, ok hvortveggi herinn var leiddr úr vetrarbúðum, þótti honum ráð at herja fyrst á nýu Karthago, því at engin borg var auðugri á Spáni, ok engin hagligri til herskapar bæði á sjó ok landi, ok þar höfðu herstjórar Pœna, borit saman allan herbúnað sinn, ok allt þat sem fèmætast var, ok höfðu sett í hana ok kastala hennar varnarlið öflugt, en þeir höfðu sjálfir skipt sèr í landinu, svo at eigi lægi þeir allir þrír á mönnum í einu hèraði, ok ætluðu sízt at þá mundi verða herjat á nýu Karthago. Scipio dró þat allt at sèr, er nauðsýn þótti, ok fór til borgarinnar með öllu liðinu, ok lagði at henni á sjó ok landi; var at sjá sem þat mundi verða þungr starfi ok langr, því at borgin var mjök sterk girð, ok varnarlið svo hugat, at eigi þóttust þurfa þess eins at verjast, hljópu þar menn einnig út, ok sóttu at herbúðum Rómverja, — en þó vinnst þar margt með viti, er eigi vinnst með afli —. Scipio vissi at tjörn ein var skammt frá múrveggjum, ok fèll í

hana sjór; mátti vaða hana með fjöru, ok eigi önnur vörn þess vegar. Hugði hann at neyta þess; ok er honum þótti hagligr tími, lèt hann liðit búast ok deilast til atsóknar borginni, ok bauð því at sækja á meir en vant var nokkru sinni áðr, en hann valdi til hina braustustu menn í öðru lagi, ok bað þá vaða tjörnina, ok komast þar at múrnum er sízt var ætlat; þeim tókst þat vel, ok komust yfir vatnit, ok urðu þá vísir at borgarmenn börðust alstaðar annarstaðar sem ákafast, en þar var ekki til gætt; komust þeir þá á múrvegginn, ok at baki óvinum; en bæarmenn, ok hit útlenda varnarlið, er þetta kom óvart at skyndingu, yfirgáfu þá múrana, þótti sótt at á tvo vegu, ok flýðu. Rómverjar sóttu á eptir ok komust í borgina ok ræntu hana. Var þar afarmikit herfang, ok hinn mesti herbúnaðr, ok allt þat er hagligt var. Lofaði Scipio lið sitt fyrir drengiliga framgöngu, ok býtti gjöfum, fekk sá múrkórónu, er fyrstr komst á múrvegginn, en tveir liðsmenn kepptu um þat, ok var nær orðit liðinu at bardaga; var skotið á herþingi, ok kvað Scipio sannat, at báðir hefðu þeir jafnsnemma upp komizt, ok gaf þeim kórónu báðum, ok lauk þá deilu; síðan lèt hann skila Spánarbúum gislum öllum, en þeir voru mjök margir í borginni, ok fekk hann af því mikla ástsæld af landsmönnum ok mikit mildleiksorð, ok hneigðust mjök margir við þat til fylgis við Rómverja heldur en Pœna, er áþjáðu þar landsmenn.

## 3. kapítuli.

### Góðvirki Scipions frægt.

Sá var einn hlutr, er mest jók orðstír hans, ok góðvild landsmanna við hann, ok hafa allir fornfræðamenn víðfrægt sem hit mesta mannprýðis dæmi; þar var færð til hans hertekin mey, sú er langt bar af öllum öðrum, álit ok fegurð; lèt Scipio gæta hennar vandliga, ok bauð at sjá við því at nokkur ynni henni grand, ok var ætlat, at hann mundi hafa lagt á hana hug sjálfr; en hann spurði þat um skammt, at hún var heitmey þess manns er Luccejus hèt, ok var Celtibera höfðingi; lèt hann þá senda eptir honum, en hann kom, ok var ungr maðr, afhenti honum síðan brúði sína óspjallaða, ok lagði þar til mjúk orð, ok önnur gæði, ok þykir eigi þat verk oflofað, en Luccejus minntist þeirrar velgjörðar, ok bar út meðal landsmanna sinna, hversu ágætur væri hinn Rómverski herstjóri at örleik, ok stillingu, ok öllum kostum, ok fór síðan með reiðmannaliði miklu í herbúðir til Rómverja.

## 4. kapítuli.

### Bardagi við Asdrubal.

Herstjórar Pœna þrír, þeir er áðr er getit, ok þar voru í landinu, eru nú nefndir: var einn Mago, annar Asdrubal hinn Barkinski, bróðir Hannibals; Asdrubal Gisgonsson hèt hinn þriði; þeir spurðu nú at farin væri nýa Karthago; þóttust víst vita at slík áföll gjöra mikit at um frægðarorð herstjóra, ok spillir fyrir við landsþjóðir, en hugðu þó

at dylja skaða sinn, en gjöra sem minnst úr þegar upp kæmi; en Scipio dró til fylgis við sig margar þjóðir, ok höfðingja á Spáni, ok voru þar með fylkiskonungar tveir, hèt annar Mandonius, en annar Indibilis, ok hugði nú at fara þangat er hann spurði at Asdrubal hinn Barkinski væri fyrir, ok berjast við hann, áðr Mago ok Asdrubal Gisgonsson kæmu til liðs við hann. Asdrubal hinn Barkinski hafði herbúðir við á þá, er Besula hèt, hann langaði til orustu, ok treysti vel liði sínu; en er hann vissi at Scipio kom, flutti hann lið sitt af slèttlendi á hæð nokkra, þar vígi var gott; Rómverja her sótti þar eptir, ok hugði eigi at bíða, en vildi komast at óvinunum á undanhaldinu, ok sóttu fyrst at herbúðunum; varð þar þvílíkr bardagi, sókn ok vörn, sem þá er unnar eru borgir, dirfði Pœna staðan ok nauðsýnin, er jafnvel hvetur stundum raga menn, en þeir hermenn harðir, ok treystu þeir á með kappi at verjast, en Rómverjar voru vongóðir ok dirfðarfullir ok börðust ákafliga, ok því meir sem Scipio sá til ok meginherinn, er eigi komst við atlögu, ok einskis manns framganga varð dulin; lèttu þeir eigi fyr en þeir höfðu neytt svo kapps alls ok orku at þeir komust á garðana, ok brutust inn í búðirnar á ýmsum stöðum, en Pœnar snerust á flótta, var Asdrubal flúinn á brott, er hann sá hversu fara mundi, með fáum liðsmönnum, skömmu áðr en Rómverjar náðu búðunum. Eptir orustuna lèt Scipio kalla fyrir sik alla Spánska menn er herteknir voru — sem hann var vanr —, ok gaf þeim brottfararleyfi kauplaust; þar var með

ungr maðr, frændi Masinissa konungs í Afriku; honum tók hann ágæta vel, ok gaf honum stórgjafir, ok sendi Masinissa konungi, ok sýndi svo örleik sinn ok góðleik eigi síðr en afreksverkin, ok varð Scipioni frægðin mest af slíku, því at fjöldi Spánar manna var þar við, og furðaði alla góðleik hans, ok máttu eigi halda sèr frá at nefna hann konungs nafni, sakir vegs hans ok ágætis, en Scipio var því óvanr, ok bað þá eigi kalla sig svo, ok þoldi þat ekki, þótti þat vera móti sið Rómverja og frelsi; seinast bað hann Spánarbúa þess, at ef þeir vildu minnast sín í nokkru, skyldu þeir halda trúnað ok góðvild við Rómverja.

## 5. kapítuli.

## Scipio vann orustur ok lönd.

Meðan þessu fór fram, spurðu herstjórar þeir tveir, er lágu við Besula, áfall Asdrubals hins Barkinska, ok skunduðu at leggja sinn her saman við hans, ok ætluðu nú allir samt at ráðgast um hernaðinn; ok er þeir höfðu ræðst við lengi, ok eigi komit saman, varð þat ráðit, at Asdrubal hinn Barkinski skyldi fara til Ítalíu á fund Hannibals bróður síns, er var fyrir allri herför, en Mago ok Asdrubal Gisgonsson verða eptir á Spáni, ok beiðast liðs frá Karthago áðr þeir ætti bardaga við herstjóra Rómverja, er hvaðanæfa söfnuðu liði ok her miklum. Fór nú Asdrubal til Ítalíu, ok fèll þar fyrir Rómverjum áðr hann náði saman við Hannibal bróður sinn, ella mundi Rómverjum hafa reitt illa af; en sá hèt Hanno, er sendr var með her-

stjórn frá Afriku í hans stað til Spánar; en er hann kom at landi ok eggjaði Celtibera upp, fór Marcus Syllanus í móti honum at boði Scipions, ok átti við hann orustu, fekk sigr, ok tók hann sjálfan. Þar var borg ein er landsmenn köllnðu Oringe, var hún auðug mjök ok haglig til at hefja upp hernað, þangat var sendur Lucius Scipio með nokkut lið, ok þótti honum hún ramgjörfari en svo, at hún mætti þegar vinnast með áhlaupi, byggði um hana hervirki, ok var hún síðan á fáum dögum unnin, ok undir lögð, var þá nær vetri, ok sýndist hvorumtveggjum ráð at halda til vetrarbúða, hafði Scipioni veitt farsælliga, ok fór hann til Tarracona, en Mago ok Asdrubal Gisgonsson til hafs, leið svo vetr, ok er sumraði hófu hvorirtveggja herskap á vestri-Spáni með kappi miklu; hittust Rómverjar ok Pœnar skammt frá Besula fylktu liði, ok áttu þar orustu mikla, sú var bæði hörð ok löng, ok fekk Scipio sigr, en Pœnar snerust á flótta, ok misstu lið mikit, ok eigi máttu þeir stöðva sig á rekstrinum fyr en Asdrubal ok Mago voru hraktir af meginlandinu, ok gátu komizt til Gades, ok höfðu misst mest allt lið sitt. Þar var í liði Karthagomanna Masinissa, ungr maðr, stórhugaðr ok ráðagóðr; hann fekk færi at mæla við Syllanus, ok bjóða vináttu sína, drógst hann til þess annathvort af því er Scipo hafði sýnt honum gott, eða honum þótti ráð at vingast við Rómverja, er þeir höfðu sigr, eðr af hvorutveggja. Var hann sá er síðan varð hinn ríkasti konungr á Numidiu með aðstoð Rómverja, ok kom þeim mjök til þarfa, var

þá hið fjórtánda ár síðan Pœna ófriðr hófst, ok lagðist þá allt meginland á hinni aðalligu Spáni undir Rómverja með fylgi ok framkvæmd Scipions, en miklu seinna var þat, er þat var gjört at skattlandi á dögum Augustus keisara. En þó at Scipio hefði nú unnit hèr mestu stórvirki, lagt Spán undir á stuttri stundu, þóttist hann eigi fullt hafa atgjört, ok vildi fá yfirburði á Afriku, þótti þat hagligast at hafa allt við til þess, at Syphax Massessula konungr yrði vinr Rómverja; njósnaði hann fyrst til skaps konungs, ok varð þess vís, at hann var Rómverjum mótfallinn; lèt hann þá allt bíða annat, ok fór á tveimr fimmtugsessum til Afriku. Vildi svo til, at kominn var á fund konungs Asdrubal Gisgonsson, ok leitaði hvor þeirra herstjóra vináttu hans við sitt fóstrland. Syphax konungr tók þeim báðum ágætliga, ok sá svo til at þeir höfðu jafnan báðir eitt borð, ok eina hvílu, svo at hvorgi væri virðr fram yfir annan; er svo sagt at Asdrubal hafi furðat hug ok vitrleik Scipions, er hann varð honum svo kunnugr, ok hugsat hvern háska Pœnar ok allir Afriku menn voru við komnir af honum, ok eigi mundi svo ungr maðr ok hvassvitr, ok frægr, er þar með hafði unnit svo margar orustur, ok var í bezta blóma, verða leiddr til at trúa því, at friðr væri styrjöld betri; hræddist hann ok, at Syphax konungr mundi virða svo mikils nærveru hans ok veg at hneigjast mundi til vináttu við Rómverja; varð ok eigi fjærri ætlan hans. Hafði Syphax konungr, fyrst er þeir komu, látit jafnt til beggja, ok leitt í tal málefni þeirra, ef sætta mætti Róm-

verja ok Karthagomenn, en síðan er Scipio kvaðst eigi mega sættast nema ræðismenn í Róm vildi, virði hann Asdrubal minna, fylgdi máli Scipions, ok gjörði sáttmál við Rómverja.

## 6. kapituli.

## Uppreistir.

þaðan hvarf Scipio til Spánar aptr, voru þar borgir Iliturgium, ok Castulona, ok enn fleiri, er eigi vildu hlýða Rómverjum, ok vann hann þær sumar með atgöngu, en fekk sumar með aðstoð Lucius Martius, ok vildi nú eigi láta gleði skorta, er allt fèll svo í skaut. Fór til nýu Karthago, ok lèt þar halda vopnaleika mikla, með stórum útbúnaði; voru þar við margir mikilsháttar menn, er ei lètu sèr lynda at horfa á, ok fóru í leikana sjálfir; þar voru viðstaddir tveir höfðingjar Celtibera, er deildu um ríki. þeir þóttu þar hinir göfugustu, þeir voru bræðrungar, ok börðust þar, ok þótti mörgum illt á at horfa, varð öðrum at bana. Eptir þat hafði Scipio enn meira í ætlan en þar til hafði hann gjört, en þá sýktist hann ok tálmaðist. Barst þat skjótt um alla Spán, ok var meira gjört orð á, sem títt er, hugðu þá margir á nýbreytni, ok eigi Spánar búar einir, gjörði þat einnig her Rómverja, er hann hafði skilit eptir hjá Sucroni. Voru liðsmenn þessir fyrst orðnir agaminni, meðan herstjórinn var fjærri, en síðan er þeim barst, at hann væri sjúkr ok banvænn, gjörðu þeir slíka uppreist ok óspekt at þeir höfðu at engu vald „tribuna“ sinna, ok ráku þá, ok gjörðu tvo liðsmenn at herstjórum.

ok eigi gáfu þeir sèr at eins nafn eitt, heldr lètu þeir bera undan sèr exar ok vöndu. Eigi voru ok Spánarbúar kyrrir, vildu einkum þeir Mandonius, ok Indibilis ná þar yfirvaldi í landinu. Þeir höfðu hvorfit til Scipions eptir þat hann vann nýu Karthago, en nú þoldu þeir illa, at ríki Rómverja stæði svo víða yfir, ok vildu fá sèr efni til nýrra stórræða; barst þeim nú at Scipio væri sjúkr eða dauðr, ok trúðu því, ok drógu her saman, ok herjuðu á Lusitana, er vinir voru ok lagsmenn Rómverja. En er Scipioni batnaði, ok þat spurðist, datt niðr öll sú margföld óspekt er upp var komin, urðu allir hræddir ok þorði enginn at fara fram upptektum sínum. Scipio var vanari herskap óvina, en uppreistum heima, þótti honum at vísu ills vert um liðsmenn þá, er uppreistina vöktu, en vildi þó eigi reiðast þeim um of í refsingu, ok bar þetta fyrir ráðaneytismenn sína; voru þeir flestir, er ætluðu rèttast, at hegna þeim er uppreistina hófu, en fyrirgefa öðrum, yrði þá refsingin á fáum, en dæmit fyrir marga; því fylgdi Scipio, ok bauð hernum, er uppreistina hafði gjört, at fara til nýu Karthago, at taka mála, hlýddu liðsmenn því, ætluðu sumir sök sína minni en var, — sem flestum mönnum er tamt — en sumir kenndu mjúkleik Scipions, ok ætluðu hann mundi eigi verða strangr, því þat var orðtak hans: at heldr vildi hann varðveita einn borgarmann sinn, en eyða þúsund óvinum; spurðist ok at her Scipions annar væri allr búinn, ok undir vopnum, ok biði þeirra, ok ætti þeir svo allir at fara saman móti fylkiskonungunum, er herj-

uðu á Lusitana, fyrir þessar sakir fóru þeir vongóðir úr Sucroni, ok komu til Karthago; en daginn eptir þeir komu þangat, voru þeir kallaðir á þingtorg vopnlausir, ok sleginn um þá hringr af vopnuðum her, settist Scipio herstjóri á dómstól, ok sýndi sik öllum lýð, svo heilan ok styrkvan, at aldri hafði hann verit rösksamligri. Síðan hèlt hann tölu, með hörðum ok þungum ákærum, ok var þá enginn af þeim hinum vopnlausa her, er þyrði at hefja augu frá jörðu, eðr líta hann fyrir minnkun, sló þá samvizka ok ótti fyrir hegningu, en nærvera hins bezta herstjóra varð bligðunarefni sekum, ok ósekum, ok þögðu allir; en er hann lauk tölunni voru formenn uppreistarinnar leiddir fram í augsýn allra, ok húðstrýktir, ok höggnir síðan með exi, at fornum sið, ok var allógurligt þeim er á sáu; en er því var lokit, lèt Scipio alla liðsmenn aðra vinna eið at nýu, ok heita at fara herför í móti Mandonius ok Indibilis, því at þeir hugðu nú af dæmi uppreistarmanna í herbúðunum at eigi mundi þeir fá grið, ok drógu saman 20 þúsundir gönguliðs ok tvær þúsundir reiðmanna, ok ætluðu at fara með í móti Rómverjum. Scipio spurði til þess, ok skundaði frá nýu Karthago áðr styrkr fylkiskonunga efldist meir, ok fleiri þjóðir risi upp, ok fór sem skjótast hann mátti móti þeim. Fylkiskonungar höfðu herbúðir þar sem var vígi gott, ok treystu svo liði sínu, at þeir töldust aldri undan orustu; höfðu nú hvorir herbúðir nær öðrum, ok var fáum dögum seinna, at Rómverjar buðu þeim bardaga (en Celtiberar voru harðastir allra

þjóða), fóru þeir ofan, ok lögðu til orustu, ok varð sú orusta bæði hörð ok löng, svo at ekki mátti í milli sjá, ok fylgdi hit mesta ofrkapp, en um síðir var komit at baki Spánarmönnum, ok urðu þeir at hringa fylkinguna, ok berjast svo, ok fèllu þá svo varla komst þriðjungr undan; sáu þeir Mandonius ok Indibilis engin úrræði, ok sendu þá menn til Scipions, ok beiddust lítillátliga griða ok uppgjafar á sökum; en þó at Scipioni þætti fylkiskonungar mikit hafa afgjört við sik ok Rómverja, ætlaði hann eigi síðr drengiligt at vinna óvini með mildi, ok mannúð, en vopnum, ok gaf þeim upp sakir, lèt þá at eins gjalda fè til málagjafar liðinu.

## 7. kapituli.

### Frægðir Scipions, heimför, ok Sikileyjar för.

Í þann tíma kom Masinissa frá Gadesborg til meginlandsins at treysta þá vináttu við Scipio sjálfan, sem hann hafði orð á gjört við Syllanus. Masinissa var kappi mikill, ok hreystimaðr, fann hann Scipio sjálfan, ok mælti við hann, ok hafði sett í hug sèr, at hann væri hinn mesti ágætismaðr sakir frægðarverka hans, ok eigi brást Nummidum at þeir fengi at kenna drengskap Scipions er þeir sáu hann. Var þar auk hugprýði, ok hins innra atgjörfis, er Scipio bar yfir alla menn, at sjá hinn fagrskapaðasta mann, ok hinn stórtignarligsta; var hann blíðr at heyra mál manna, mjúkr í svörum, ok furðuliga laginn at leiða hvers manns hug til samþykkis; at áliti var hann karlmannligr, ok hafði hár allmikit. Masinissa heilsaði honum, er hann

sá hann, ok er svo sagt, at hann hafi furðat sig á honum, svo mjök, at eigi hefði hann augu af honum, ok þóttist eigi geta skoðat hann sem hann vildi, þakkaði hann honum ástsamliga fyrir frænda sinn, er hann hefði sent sèr, ok hèt honum æfinligum trúnaði ok vináttu, ok þat endi hann stöðugliga við Rómverja, meðan hann lifði. Hafði nú Scipio komit öllum þjóðum á Spáni, annathvort undir Rómverja, eðr í vináttu við þá, en Gadesborgar menn hugðu sèr til hins sama, ok gengu sjálfkrafa undir Rómverja; þeir voru forn þjóð, ok er svo sagt, at Karthago á Afriku, ok Theba á Grikklandi, ok Gadesborg við sæinn, hafi allar verit reistar af Týrusmönnum. Ok er Scipio hafði nú undir lagt Spán, en rekit Pœna, ok átti þess eigi von, at mótstaða önnur yrði, setti hann Lucius Lentulus, ok Montius Accidius yfir landit, ok fór til Rómaborgar; þá er hann kom þar, þinguðu ræðismenn utanborgar í Bellónu hofi, kom hann þangat, ok taldi þar þá hluti, er hann hafði unnit um mörg ár hraustliga ok hamingjusamliga, ok at Karthagomenn voru reknir af Spáni, ok engar þjóðir þar orðnar eptir, er eigi voru komnar undir ríki Rómverja, þá þótti ræðismönnum hann vera verðr hinnar ágætustu tignarfarar, en af því þat hafði eigi orðit áðr, at sá er var í ræðismanns stað, ok hafði eigi önnur völd, skyldi vera fluttur í sigurför í borgina, þá sýndist eigi ræðismönnum at breyta sið feðra sinna ok Scipo beiddist þess eigi mjök, ok gekk hann í borgina með miklum veg af öllum Rómverjum, ok var gefit ræðismanns nafn; er svo

sagt at sjaldan hafi verit mannfleira í Róm, ok eigi svo mjök til at vera við höfðingjaþing — er svo margir komu víða at — sem til at sjá Publius Cornelius Scipio, ok voru þat eigi Rómverjar einir; komu menn úr öllum áttum til at skoða hann berliga, en sín á meðal mæltu þeir, at hann skyldi senda til Afriku til at sækja á Karthagomenn heima; Scipio var sjálfur á því, ok kvaðst mundi bera þat mál fyrir lýðinn, ef ræðismenn mæltu á móti svo góðu ráði, því at sumir af feðrunum voru fast í móti því, ok einn Fabius Maximus, er mest þótti verðr; Scipio mælti þar í móti, ok sýndi með mörgum rökum at með því einu mætti Pœnar vinnast, ok þá yrði Hannibal komit úr Ítalíu, kvað allar tillögur aðrar vera óráð; var lengi þreytt um þetta, ok at lyktum var Scipioni dæmd Sikiley til forráða, ok leyft at fara til Afriku með allan herinn ef hann ætlaði at þat yrði Rómverjum gagn, ok er þessi úrskurðr ræðismannanna var birtr lýðnum, reistust allra manna hugir til mikillar vonar, ok hugðu at fara til Afríku, efaði enginn at af því mundi verða endir ófriðar, en Scipio átti erfitt mjök, at koma sèr við, því bæði skorti þá fè í fèhirzluna, ok var fæð af ungum mönnum, því at Hannibal hafði eytt þeim í mörgum bardögum, en eigi lèt hann sitt skorta at koma svo miklum hlutum áleiðis, ok hafði allt við at búast; komu til liðs við hann margar þjóðir af Hetrura ok Umbralandi, ok fluttu sumir við til skipasmíðis, sumir vopn, sumir korn, ok allra handa vistir til hersins, ok var nálega öllum mönnum ótrúligt, at flotinn

var reistur, ok búinn á 40 dögum ok hèlt frá Ítalíu, ætlaði Scipio til Sikileyjar; ok er hann skipaði hernum, valdi hann þá sèr í lagi er verit höfðu með Marcellusi í margt ár, því at þat var ætlat at þeir mundu kunna betur til herskapar, en aðrir menn.

## 8. kapítuli.

## Síkileyjar för Scipions, rógr rekinn.

Scipio hugði nú at flytja sem skjótast herförina yfir á Afriku, þegar fært væri fyrir árstíðar sakir, ok lagði hann á þat kapp mikit, lèt hann Sikileyinga styrkja til hennar, ok kom þeim summum til með valdi, sumum með sjálfvilja, er svo sagt, hann hafi safnat þar 300 mönnum, af ýmsum borgum, er göfugastir voru þar í landi, ok boðit þeim a* vera búnum á ákveðnum degi, með vopnum ok hestum; þeir gjörðu sem hann bauð, ok voru búnir þann dag. Bað hann þá at þeir færi annathvort til Afriku með sèr, eða lèti í sinn stað hesta ok vopn, hvort sem þeir vildu heldr, þeir kusu allir at vera heima, ok hafði Scipo með sèr 300 unga menn, er vopnlausir höfðu farit frá Róm, var hann búinn við þessu ok lèt þá taka við vopnum þeirra ok hestum, ok fylgdu þeir menn honum vel ok trúliga síðan í mörgum orustum í Afriku, hugði hann ok at koma skipun á í Sikiley ok fór til Sýrakusa borgar, hafði spurt af kveinan margra manna, at þar í borg væri mikill fjöldi hermanna frá Ítalíu er hèldi þeim hlutum mörgum at herfangi, sem borgarmenn áttu, ok ræðismenn í Róm höfðu dæmt þeim, rak hann þá til at fylla þá á-

lyktan, suma með úrskurðum, suma með dómum, ok fekk fyrir þat þökk mikla, ok ræðismanns veg af Sikileyjar þjóðum. Hann hafði sent Cajus Lælius á meðan til Afriku, ok kom hann aptr með mikit herfang, ok sagði honum at Masinissa konungr vænti eptir honum ok þreyði mjök, ok bað hann koma skjótt til Afriku, ef eigi væri Rómverjum vanhagr, sagði ok at hins sama æsktu margar þjóðir á Afriku, er hötuðust við ríki Karthagomanna, ok væntu jafnan eptir breytingar færi, en eigi dvaldi Scipio latmennska frá þeirri för; voru fáir herstjórar framkvæmdarmeiri eða liðbetri; tafðist hann við dóma í Sikiley, ok tækifæri at ná Locris, ok mátti því eigi koma fram ætlan sinni svo skjótt, sem hann vildi, jókst við mál Pleminius fylkingar formanns, er Scipio hafði skilit eptir í Locris; hann hafði sýnt alls konar illmennsku lausungar ok ágirnis bæjarmönnum, ok vildi alþýðan allt þola heldur en ríki þess ódrengs, fyrir því sendu Locrar menn til Róm, þeir komu til ræðismannanna, ok báru fyrir þá þann ójöfnuð hinn mikla er Pleminius sýndi þeim, ok þótti feðrunum svo mikit, at þeir lögðu þung ályktarorð á, ok eigi á Pleminius einan, var ok Scipioni kennt, ok gafst þá rógsmönnum mikit færi, kváðu hann víst mundi vita þat ranglæti, er Locrum var sýnt, mundi hann hafa þolat illvirki Pleminius, deilur liðsmanna, ok aðra óskipun meir enn góðum ræðismanni sómdi, þeir jóku því við at her hans í Sikiley væri byggjulaus, ok hefði engan hers-aga ok sjálfr hvikaði hann, ok gæfi sig við sæld ok iðnarleysi, ok svo er

sagt, at Fabius Maximus áfelldi Scipio meir en aðrir, ok svo mjök, at hann vildi hann væri þegar kallaðr heim, ok tekit af honum hers forræði. en þat sýndist öllum helzt til hart, ok fylgdu feðurnir því, sem Qvintus Metellus lagði til, ok skáru svo úr, at senda skyldi 10 menn til Sikileyjar, er þar skyldu gjör prófa þat sem ræðismönnum var borit um Scipio, ok ef hann reyndist sekr, skyldu þeir bjóða honum í nafni feðranna at hverfa til Ítalíu, en ef sakir væru lýgi ok rógr einn, lèti þeir hann fara til hersins, ok bæði hann at halda trúliga fram herför. Sendimenn fóru til Sikileyjar ok prófuðu málit, ok gátu enga fundit sök Scipions, nema þá, hann hafði lint tekit undir sakargiptir Locra, við Pleminius, því at hann var ör at launa, en mildr ok mjúkr í refsingum, ok má þá hafa orðit við of; en er þeir litu á herinn ok flotann, ok allan hers útbúnað, furðaði þá svö mjök skipun á hverju einu, at síðan er þeir hvurfu til borgar, lofuðu þeir Scipio stórliga, ok ráku allan róg, ok ámæli, ok gáfu höfðingjum ok allri alþýðu í Rómaborg hina vísustu sigrs von.

## 9. kapituli.

### Scipio fór til Afriku.

Þá er þessari heima-tálman var lokit, bar aðrar ábyggjur at, ok urðu Scipioni mjök uggvænar; komu til hans sendimenn frá Syphax konungi, kvaðst konungr hafa skipt um vináttu, samit við Karthagomenn, ok fengit dóttur Asdrubals at konu, ok rèð Scipioni, ef hann vildi vel sjá fyrir sínu landi,

at eiga eigi við Afrikubúa, lèzt mundi hafa þá alla at vinum eða óvinum sem Pœnar hefðu. Scipio sendi þá menn jafnskjótt til Syphax konungs aptr, ok bað þá svo segja, at konungr skyldi gæta þess fèlagskapar, er hann hafði gjört áðr, ok handsalat, ok taka eigi þat upp nú er Rómverjum væri til meins en konungsvirðingu hans til vansemdar, síðan skaut hann á þingi, ok sagði mönnum sínum at sendimenn Syphax konungs hefði komit í Sikiley, ok þætti þeim at, sem öðrum Afriku mönnum, er hann væri eigi kominn enn í land þeirra, ok bað nú eigi dvala at fara til Afriku, skyldu allir liðsmenn búa vopn sín, ok hvað sem þeir þyrftu til farar; barst þetta boð hans um Sikiley, ok kom mikill mannfjöldi til Lilybæum, ok miklu fleiri, en ætluðu til Afriku, komu margir til at sjá skipabúnað Rómverja, því at fáir munu sèð hafa búnari flota, ok skreyttari at öllum vopnaburði. En er Scipio hafði búit at öllu sem bezt, lagði hann út frá Lilybæum, með svo miklum áhug at komast til Afriku skjótt, at hvorki þótti honum verða róit eðr siglt sem honum líkaði; hann kom á fáum dögum til Fagrhöfða, ok setti þar liðit allt á land, en er þat spurðist í Karthago skjótt, at hann var kominn, varð þar hin mesta ókyrrð; voru menn kallaðir til vopna, ok verðir settir á múrveggjum, ok at hliðum, hafði enginn herstjóri Rómverskur komizt til Afriku, með afla hers um 50 vetr, síðan Regulus fór þangat, ok því var eigi undr, þó allt væri óttafullt ok ókyrrleiks, ok var óttinn því meiri sem Scipio var frægri. Þóttust

Karthagomenn eigi vita þess hertoga vonir, með sèr, er honum mundi fær at mæta, því at Asdrubal Gisgonsson þótti ágætr herstjóri í þann tíma; ok hafði Scipio sigrat hann, ok rekit af Spáni, þó treystu þeir honum einkanliga, ok svo Syphax konungi hinum ríka, at þeir mundu frelsa land þeirra, ok báðu konung jafnan, en heimtu Asdrubal at skunda sem mest til liðsinnis við sig ok alla Afriku.

## 10. kapituli.

### Fall Hannons ok mannskaði Pœna.

Hanno son Hamilkars „þrumu", bróðir Hannibals, var settr fyrir landvörn í hinu næsta landi, ok fór hann í móti Rómverjum, en Scipio herjaði landit, ok fekk mikit herfang liði sínu, lagðist hann með öllum hernum nærri Utiku, þat var fræg borg ok haglig til herskapar bæði á sjó ok landi, ok vildi hann vinna hana ef verða mætti; þá var kominn í herbúðir til hans Masinissa konungr, ok var hann fullr ofrkapps ok áhuga at berjast við Syphax konung, er tekit hafði frá honum mikit af því ríki er faðir hans átti. Scipio hafði kennt hann at því á Spáni ungan, at hann var harðfengr, ok vopnkappi mikill, ok sendi hann á njósn til herbúða Hannons, ok bað hann leggja þar allt til, er hann mætti, at Hanno vildi berjast. Masinissa fór sem honum var boðit, ok erti Pœna ok dró smámsaman eptir sèr, nær þeim stöðum þar Scipio var fyrir með her sinn búinn til bardaga ok beið þar lags, var Hannons lið tekit at þreytast er Rómverjar komu í móti því; þar varð orusta ok gjörðu Róm-

verjar svo harða hríð, at Hanno fèll þar ok mikit lið annat, en aðrir flýðu víðs vegar, hverr sem búinn var; eptir þat hvarf Scipio aptr til Utiku til atsóknar henni, en Asdrubal ok Syphax konungr komu með óvígan her gönguliðs ok reiðmenn, ok vörðuðu honum þess, því at þeir settu herbúðir skammt frá Rómverjum, lèt Scipio af umsátri er hann vissi þat, ok sló herbúðum á nesi nokkru háu ok girði um; þaðan mátti hann leggja fram í móti óvinunum, þröngva Utiku mönnum, ok koma til liðs skipaflota sínum, ok er tími sýndist til at hvorirtveggja færi í vetrarbúðir, sýndist honum ráð, at senda menn til Syphax konungs, til at vita um fyrirætlan hans, og leiða hug hans frá Karthagomönnum ef þeir mættu, vissi hann at Sophonisba kona hans, Asdrubalsdóttir, mundi ráða fyrir honum, ok hafa komit honum til at brigða liðsinni við Rómverja, ok þar með at leita á þá með fjandskap í móti rètti ok sáttmála við þá; ætlaði at ef hann gjörði mest at hennar orðum, mundi mega leiða hann til vitrligra ráðs; en er Syphax konungr hafði hlýtt því, er honum var sagt í nafni Scipions, tók hann til máls; ok kvað nú hagliga stund, ok eigi til þess at hann vildi yfirgefa fèlagskap við Pœna, en hins heldr at láta af herfara hug, ok lèzt mundi verða hinn mesti meðalgöngumaðr til sátta. Scipioni þótti þat ólíkligt at heyra, ok fann ráð brögðótt, voru sett grið, ok ákveðinn tími hve lengi skyldi standa til umráða, lèt Scipio sendimenn fara aptr, en valdi hina vöskustu menn af öllu liðinu, ok lèt þá búast þrælabúningi ok fylgjast með, ok sagði

þeim svo fyrir, at þeir skyldu njósna um herbúðir óvinanna, ok alla vegu at þeim, ok frá þeim, á meðan sendimenn væru at ræða við Syphax konung, þeir gjörðu sem boðit var, en viðtal konungs og sendimanna varð langt, ok dregit með vilja, fengu liðsmenn opt færi á at skoða herbúðirnar, ok komu síðan á fund Scipions aptr, sagði þá Scipio at liðin var griða stund, ok eigi von sátta, ok bjó vopn sín ok skip ok hernaðar verkfæri, ok fór at herja á Útiku, sem hann hafði upphafit, lèt hann þat berast víða ok vildi at því væri trúat, en kallaði saman her-tribuna, ok sagði þeim ráð sitt, kvaðst þess nú vís, at tvennar væri herbúðir óvina, ok skammt í milli, vetrar-búðir af trè, en aðrar af reyni flèttuðum, ok mætti brenna hvorartveggju, heimti síðan á tal Masinissa ok Cajus Lælius, ok bauð þeim at fara á hagligri nóttu til herbúða Syphax Numida konungs, ok varpa í þær eldi, en hann kvaðst mundi finna herbúðir Pœna; þeir voru ólatir til farar, ok á ákveðinni stundu lögðu þeir at herbúðum Númida ok kveiktu í reyrnum, dreifðist logi skjótt víða, ok nær um allar herbúðir. Númidar ætluðu kviknat í af ógætni, ok hljópu saman til at kefja eldinn, en þá voru Rómverjar fyrir þeim, felldu þá ok tóku, en sumir komust undan á flótta; slíkt fór ok fram þar Scipio var fyrir var kveikt í herbúðum Karthagomanna, ok þeir felldir ok reknir; varð svo mikit mannfall á flóttanum þá nótt — at því er margir fræðimenn hafa sagt — at 40 þúsundir fèllu af hvorumtveggju Pœna ok Númida.

## 11. kapítuli.

## Scipio sigraði Syphax konung.

En er spurðist til Karthago um áföll þessi, ægði borgarmönnum svo mjök, at sumir vildu láta senda til Ítalíu eptir Hannibal, en sumir biðja Scipio sátta, en Barkínar (frændur ok vinir Hannibals), er var hinn ríkasti flokkr ok máttkasti, vildi með engu móti sættir, ok rèði því at enn væri safnat liði, til framhalds styrjaldar; drógu þeir Syphax konungr ok Asdrubal, þá enn at sèr mikit lið, göngumanna ok reiðmanna, ok bjuggu her þann allan skjótara en von þótti til, ok settu enn herbúðir í augsýn Rómverja, en er Scipio varð þess vís, hugði hann eigi dveljandi meðan liðsmenn sínir væri sem hugmestir, ok treysti sèr til bardaga, varð þat fyrst at smá-orustur voru haldnar nærri herbúðum, en síðan kom allr herinn saman, ok sóttu Rómverjar svo ákafliga at í hinni fyrstu hríð komu Númidar ok Pœnar á flótta, ok fèllu mjök margir á flóttanum, en Syphax konungr ok Asdrubal hleyptu undan úr miðju mannfalli; sendi Scipio Masinissa ok Cajus Lælius, með því reiðmanna liði er lèttfærast var, at elta þá, reið Syphax undan í Númidiu, er hann hafði tekit frá Masinissa, ok þaðan í ríki sitt hit forna, ok dró þar skjótt allra handa lið saman, ok fór á móti Masinissa ok Læliusi, ok rèðist í at berjast við þá, ok var þat illt ráð, því hann var þó miklu fáliðaðri, ok hvorki saman at jafna liðsmönnum nè fyrirliðum, ok fekk hann úsigr fyrir slíkum hermönnum, ok varð framar en Masinissa vænti, því hann varð tekinn sjálfr

í þeim bardaga, ok fluttr síðan til Scipions, ok margir göfugir menn með honum, urðu Rómverjar allir fyrst glaðir við, er þeir spurðu at Syphax konungr væri fluttr til herbúða þeirra, en er hann kom þeim fyrir sjón bundinn, aumkuðu margir, er hann var þar kominn, ok minntust á tign hans hina fornu, ok hve frægt var ríki hans ok nafn, ok hversu stórauðugr konungr hann hafði verit, ok haft mikinn styrk fyrir skömmu, en var nú svo mjök fallinn frá hinu æðsta valdi. Herstjóri Rómverja Scipio sjálfur mælti til hans mjúkliga, ok spurði hann: hví hann hefði svo skipt fyrirætlan sinni, ok hvat hefði rekit hann til at hefja ófrið við Rómverja? En konungr minntist þá fornrar viðkynningar, ok þess er hann hafði handsalat Rómverjum vingan sína, ok svaraði honum með trausti miklu, kvaðst hafa farit at ást ok ráðum Sophonisbu konu sinnar, ok tekizt síðan á hendr við Rómverja þat er allir vissu, ok fengit þess nú skjót gjöld, ok mætti allir læra af sínu dæmi, at rækja trúnað ok skyldu, en kvað sèr þat nú hugarhægð í óhamingju sinni hinni miklu, at hinn mesti óvin sinn Masinissa konungr væri nú fallinn í hina sömu heimsku, er sig hefði hent, því at svo hafði borit við, at þegar Syphax konungr var tekinn ok bundinn, ok Masinissa fór til Cirthu höfuðborgar hans, ok vann hana þegar, hafði hann fundit Sophonisbu konu hans, ok var hún blíð við hann mjök, en hann tók ást mikil á henni, ok hèt henni fastliga at frelsa hana frá Rómverjum, ok þegar fá hennar, svo þat heit yrði sem fastast, ok þat hafði Syphax spurt. Scipio hafði ok spurt

þetta skjótliga, ok varð honum mikit um, því at þat vissu allir, at Rómverjar voru oddvitar herfarar, ok með þeirra forsjá var Syphax konungr unninn, ok áttu þeir því dóm á því, sem undir hann hafði legit, ok því þótti Masinissa hafa óvirt umráð Scipions ok vald Rómverja, er hann gjörði sik at verndarmanni Sophonisbu óleyft af herstjóranum: þótti ok spilla um, er honum gekk lausung til, ok því meir sem slíkt var fjarstæðara herstjóranum, ok ólíkara hans siðum, er Masinissa hafði fyrir augum sèr til eptirbreytni; því at þat var sem aðrar manndyggðir Scipions, at hvar sem hann sigraði óvini sína, þá hèlt hann sèr jafnan frá öllum herteknum konum; líkaði honum stórilla við Masinissa, en þó tók hann honum vel í fjölmenni, er hann kom aptr til herbúða, síðan leiddi hann hann á einmæli, ok vítti hann mjök, ok var á Masinissa at finna, at honum sómdi at hlýða svo vel stilltum og þó alvörumiklum herstjóra, ok fór grátinn, ok ráðþrota til tjalds síns, en nokkru síðar, er hann sá, at hann mátti eigi veita Sophonisbu þat er hann hafði heitit henni, ok tók þat sèr mjök nærri, þá lèt hann birla henni ólyfjan, ok bjóða henni at drekka, gjörði hún þat, ok dó síðan, ok líkaði Scipioni þat einnig mjök illa, ok kvað þat eigi gjört at sínu skapi.

## 12. kapítuli.

### Scipio sigraði Hannibal.

Ná sáu Karthagomenn, at þeir höfðu fengit svo mikinn mannskaða, at eigi var lengr til at hyggja

fyrir þá at deila við Rómverja um ríki eða yfirstíga þá, ok eigi annat en verja sik, ok sendu nú epir Hannibal til Italíu. Honum líkaði mjök illa at yfirgefa þar, en hvarf þó skjótt til Afriku, hræddist hamingju Scipions ok uppgang þar í landi, ok treysti eigi landsmönnum sínum at verjast honum, kom fyrst í hug at tala við hann um sættir, ok tóku þeir til stað at mælast við. þar komu þeir báðir, ok áttu langa viðræðu um þat er milli hafði farit, ok sáttakosti. Um síðir bauð Scipio honum þær sættir, er sýndu, at Rómverjar voru hvergi uppgefnir, ok hann vænti heldr sjálfr sigrs, en at hitt heyrðist, at hann langaði eptir sáttum, en eigi fekkst af Hannibal at samþykkjast því, ok tók fyrir von þess, ok skyldu þeir svo. En annars dags var búizt við orustu, ok skyldu nú tvær hinar göfugustu þjóðir reyna sik til þrautar, ok tveir hinir æðstu herstjórar í heimi leikast við, ok deila um heimsvald, ok aðrir hvorir halda, en aðrir missa; er svo sagt at orustuvöllr væri nærri Zama, ok at þar legði hverir fram allan afla sinn er til var, ok tókst þar orusta mikil ok fræg meðan veröld stendr. Pœnar börðust hraustliga og stóðu fast, ok þóttust þá eiga alla hamingju undir vopnum sínum, en Rómverjar sóttu ákafliga, ok væntu at yfir skyldi taka, ok lykta ófrið ok allan þann mannskaða, er Hannibal hafði unnit þeim; börðust ok herstjórarnir sjálfir ágæta vel allir, ok er sagt, at Scipio hafi sjálfr, eitt sinn átt höggvaskipti við Hannibal ok Masinissa konungr öðru sinni, ok hafi á enga orkazt meðan þeir máttu eigast við. þeir Massinissa ok

Lælius áttu þar sókn sem reiðmannalið Hannibals var fyrir, en undan því liði fóru fílar, ok gátu Rómverjar með harðri sókn snúit fílunum, ok á reiðmannaliðið, en síðan riðlaðist þat ok komst á flótta, ok eltu þeir Masinissa ok Lælius þat langa leið. Í annan stað áttist gönguherinn við mjök harðfengliga, ok orkaðist eigi á Hannibal ok kappalið hans, hafði hann búit fylkinguna sem bezt, ok skipat öllu sem bezt ok aldri betr en þá, ok lèt ekkert ógjört, er miklum herstjóra sómir, barðist ok hit knáligasta hvar sem helzt þurfti, svo at Rómverjar máttu eigi annars en lofa frægð hans; Scipio var at öllu vel búinn sem fyr segir, ok fórst at öllu vel, ok allir dugðu Rómverjar ágætliga, ok slíkt hit sama Pœnar; en er þeir Lælius ok Masinissa komu frá flóttarekstri, sneru þeir at baki Karthagomönnum, ok komu þeim í opna skjöldu, ok gjörðu mikit at, en þá herti gönguliðit sóknina, fèllu þá Pœnar ok flýðu; Hannibal leitaði eigi undan, fyr en þrotin var von öll; þó hjó hann sik þar í gegn er mest voru mannföllin, ok komst undan; er svo sagt, at alls hafi fallit ok verit tekit af Pœnum meir en 40 þúsundir, ok varð nú Scipioni auðit algjörligs sigrs á þeim herstjóra, er Marcellus hinn frægi endist eigi til at sigra, ok engum varð auðit á nokkru landi, hvorki eptir nè áðr; en er lokit var orustu, kom Vermina son Syphax konungs með her til liðs við Pœna. sneri Scipio móti honum, ok rak hann á flótta, hèlt nú liðinu móti múrveggjum, ok höfn fyrir Karthago, ok vænti þess er varð, at Pœnar mundu beiðast friðar lítil-

látliga; var nú hugr Karthagomanna orðin linaðr at öllu, svo harðr sem hann hafði verit, ok tók fyrir til fulls, er þeir sáu Hannibal sigraðan, þar þeir þóttust hafa átt allt traust undir; sendu þeir nú menn til Scipions ok báðu hann sýna mildi, ok lètu bera fram friðarbón með mörgum orðum.

## 13. kapítuli.

## Vegr Scipions.

Rómverjar áttu nú mikit at tala um forræði Afriku, ok var sendr annar hinn nýi ræðismaðrinn til hersins með jöfnu valdi at standa fyrir herför, óttaðist þá Scipio, at annar mundi eigna sèr frægð at lokum herfarar, en hann, ok tók vel sendimönnum Karthagomanna, var hann látinn ráða sáttmáli öllu, ok tók hann frá þeim skipaflota þeirra, er þeir höfðu mjök treyst, var hann brenndr, ok hörmuðu þeir sem á sáu, þótti borgarmönnum sem eydd væri borgin, er sagt at skipin hafi verit 5 hundrut, er brennd voru, ok var þar at sjá mikit dæmi óstaðfesti mannligra efna, er gleymd er þegar vel veitir, höfðu Karthagomenn fengit áðr margan ok mikinn sigr, lagt nær undir Italíu alla, djarfliga sezt um Rómaborg, ok ætlat sèr forráð alls heims. en nú litlu síðar svo komnir, at misst höfðu valds alls, ok áttu ekkert utan múra í Karthago, treystust ok eigi at verja borg sína nema þeir ættu þat undir góðvilja óvina sinna. Scipio setti Masinissa konung í ríki sitt at boðum ræðismanna í Róm. ok fekk honum ásamt þat land sem auðugast var af ríki Syphax konungs, varð hann síðan ríkr konungr í Afriku. Síðan galt hann hverjum

laun eptir því sem til vann, ok skipaði öllu á Afriku, ok flutti herinn til Italíu; en er hann átti skammt til Róms, kom þangat mikit fjölmenni, ok vildi sjá þann herstjóra, er slík stór afrek hefði unnit, fór hann síðan í borgina með hinni vegligustu sigrför, ok eptir honum Terentius Culeo ræðismaðr, með hatt á höfði; hafði Scipio leyst hann úr ánauð. Svo segir Polybius, at Syphax konungr hafi þar verit fluttr, en aðrir segja hann dáinn verit skömmu áðr. Margir höfðu sigrfarir haldit áðr bæði í Pœna styrjöld ok síðan í Macedona leiðangri, er meira fluttu gull ok silfr, ok hertekit lið, en þó var engin frægri en þessi, því at þat þótti meira vert en allt annat, at Hannibal var sigraðr, ok varð Scipio frægr af því um allan heim. Ok er Afrika var undir lögð, þótti engri þjóð minnkun at liggja undir fyrir Rómverjum, ok af þeim sigri hófst síðan færi til ríkis á Macedoniu, Asíu ok öðrum löndum, var Scipio kallaðr eptir þetta hinn Afrikanski, ok skorti hann þá eigi nokkurs konar veg í Rómaborg; var þing haldit um censors kosningu, ok leituðu eptir hinir göfugustu menn, en hann ok Ælius Petus voru teknir fram yfir aðra til þess, ok var síðan í því embætti hin mesta ráðvendni ok eining. Margir censorar, er síðan voru, kusu ok jafnan Scipio með sèr, en sú sýslan var eigi ætlut nema hinum ágætustu mönnum fyrir allra hluta sakir, ok aptr tók hann ræðismennsku áðr langt leið, ok var þá með honum Sempronius langi son þess Sempronius, sem Hannibal hafði sigrað við Trebiu-á, ok fellt af

mikit lið; þeir er sagt at fyrstir hafi skilit feðurna frá lýðnum, þegar á leika var at horfa, kunni lýðurinn því illa, ok reiddist ræðismönnum, þótti þeir hafa smáð sik í því; ok svo var mælt, at Scipio hinn Afrikanski hafi einu sinni iðrat þess síðan, at hann breytti þar fornum sið.

## 14. kapítuli.

## Viðskipti við Antiochus konung ríka.

Í þann tíma voru landamerkja-þrætur nokkrar með Masinissa konungi ok Karthagomönnum, ok fór Scipio af hendi ræðismanna, ok tveir aðrir höfðingjar með honum, at setja þær niðr, en eigi gjörðu þeir at, ok er svo sagt, at þat hafi verit með ráði, svo at Pœnar hefða þau nokkur þrætuefni heima, at eigi gæfi sik við öðru, eða reisti sik til nýrra viðburða, því at þá var ófriðr við Antiochus konung hinn ríka, ok Hannibal hinn Karthaginski kominn á hans fund, ok var með honum, ok lèt eigi af at halda áfram fornum fjandskap við Rómverja, ok at eggja Pœna at brjóta af sèr ok Rómverja, ok hafa at yfirvarpi samband við Antiochus konung; skyldu þeir nú freista hvat konungr dygði. Rómverjar höfðu litlu síðar gagn í viðskiptum við Antiochus, ok ráku hann úr Grikklandi þar hann leitaði á, ok tóku at hyggja á at sækja hann heim í Asíu; ætluðu þá flestir menn at Scipio hinn Afrikanski væri bezt fallinn til at vera herstjóri, ok leiða stórvirki til lykta.

Þá voru Lucius Scipio bróðir hans ok Cajus Lælius ræðismenn, ok vildu þeir báðir fá forráð í

Asíu; áttu ræðismenn (senatus) at dæma í meðal þeirra, ok urðu kappmæli, þóttust þá flestir ófærir úr at skera með slíkum mönnum. Scipio hinn Afrikanski var eldri þeirra bræðra, ok bað þess at eigi yrði rýrð frægð sinna kynsmanna. „Veit ek“ sagði hann, „at bróðir minn er hinn mesti hreystimaðr, ok hinn vitrasti til ráðagjörða, skal ek eigi mælast undan at vera fylkingarforingi með honum, ef hann er formaðr farar.“ þetta þótti feðrunum furðuliga vel mælt, ok fögnuðu því, ok tók af þeim allan efa, dæmdu at Lucius Scipio skyldi fara til Grikklands móti Ætolum, ok síðan yfir á Asíu móti Antiochus konungi, ef honum sýndist, ok taka með sèr bróður sinn at fylkingarforingja, Scipio hinn Afrikanska: mætti hann mæta Hannibal, er hann hefði sigrað áðr, ok nú væri fyrir liði Antiochus konungs. Sýndi Publius Scipio enn hina sömu frændrækni, sem hann hafði sýnt föðr sínum í æsku, er hann vildi nú eptir svo mörg ok mikil stórvirki, er hann hafði unnit, ok svo mikla frægð, sem enginn maðr annar hafði fengit, vera undirmaðr bróður síns; var hann ok í hinum beztu ráðum með honum, ok sýndi honum trúleik mikinn, ok með hans aðstoð vann Lucius Scipio bróðir hans mikla frægð. Fór hann yfir til Grikklands, ok setti 6 mánaða grið við Ætola at hans ráðum, ok sótti til Asíu, þar uppruni ófriðar var; fundu þeir Prusias Bithyníu konung, var hann með Antiochus konungi, en hverflyndr nokkut, ok dró Scipion hinn Afrikanski hann úr fèlagi við Antiochus; var frægð Scipions mikil, ok allir þeir sem þurftu at finna ræðismanninn, ok beið-

ast einhvers leituðu hans aðstoðar. Ok er þeir voru á Asíu, var þar fyrir sendimaðr Antiochus konungs hins ríka, ok Heraclides hinn Byzantiski, ok áttu at tala um sáttamál; ok er sendimaðrinn þóttist eigi ná berliga þeim sáttum er honum líkuðu, gekk hann á einmæli við Scipio hinn Afrikanska, því svo var honum boðit, ok bauð honum hlut í öllu ríki konungs nema konungs nafn, ef hann vildi semja sátt at hans vilja, en koma því á við ræðismanninn: en slíkr var hann í trúleik ok rèttlæti, sem öðrum kostum, ok tók eigi undir slíkt, beiddist at eins, at sonr sinn, er var með konungi, væri sendr sèr, ok lèzt vilja gjalda þá velgjörð við sik sjálfan með annari slíkri, ef þat fengist; en bað sendimann segja svo konungi öllu framar, at hann rèði honum at láta af ófriði, ok ganga at þeirri sátt, er ræðismenn Rómverja höfðu boðit, en þat var at sleppa þeim löndum sem Antiochus konungr hafði tekit af öðrum höfðingjum, ok gjalda herfarar kostnað. Antiochus konungr sendi nokkrum dögum seinna sveininn til Scipions sem heitit hafði verit af hans hendi; segja menn hann hafi í upphafi ófriðar farit til Oncum á litlu skipi ok njósnat um óvina ráð, ok verit tekinn, en nú væri hann sendr föður sínum, er hann lá sjúkr í Eleu. Scipio fagnaði mjök þeirri eptirlátsemi konungs, ok er hann sá sveininn álengdar hresstist hann mjök við bæði í sinni ok líkama, svo sjúkr sem hann var, ok vildi nú gjarna þakka nokkru; bað hann sendimenn er til hans komu, at bera konungi kveðju sína, ok þakka honum ástsamliga fyrir þat hann sendi son

sinn; „ok biðit hann þess", sagði hann, „at eigi fari hann til orustu fyr en ek em heill ok kominn úr Eleu til herbúða, ok hann spyr þat." Antiochus konungr virði til þess orð hans, at hann hèlt sèr nokkra stund í herbúðum, ok ætlaði at lengi skyldi dvelja orustu, ok hugsaði, at Scipio hinn Afrikanski mundi mæla fyrir sik við ræðismanninn, svo hann næði geði hans; en er ræðismaðrinn fór til Magnesiu, ok eggjaði hann til at berjast, þóttist Antiochus konungr hafa ærnan afla, ok fór hvorki at ráðum Hannibals, er bauðst til at vera oddviti fyrir hann, ok stjórna öllum her hans, ok eigi lengr at því er er Scipio hafði varat hann við, ok þoldi sik eigi, ok lagði til orustu. Þar voru margir herstjórar með konungi, ok er sagt at Hannibal væri einn. Þar varð orusta mikil, ok fekk Antiochus konungr ósigr ok flýði, ok sá þá farinn afla sinn, ok engin úrræði; en skömmu eptir orustuna tók Scipioni Afrikanska at batna, ok flýði konungr í búð til hans, ok fekk með hans fylgi sáttakost af ræðismanninum; komu síðan sendimenn konungs í herbúðir, ok beiddu honum uppgjafar, en kváðu Rómverja ráða skyldu kostum öllum; þá er mælt at Scipio hinn Afrikanski hafi svarat: „Eigi er siðr Rómverja að lúta undir þó erfitt veiti, eigi heldr stæra sik þó í hag falli; taki konungr hina sömu kosti, er honum buðust áðr en sigrinn var unninn, skipti sèr eigi af Norðrálfu, en láti lönd öll á Asíu, frá Vanakvísl at Taurusfjalli, er hann hefr tekit af öðrum höfðingjum, gjaldi skatt um 20 ár, ok gefi 20 gisla, er ræðismenn í Róm kjósa, en eink-

anliga láti Hannibal af hendi, er vakit hefir þenna ófrið" Hafði Hannibal sèt þat, at allr afli konungs var farinn, ok haft sik á brott ok flýit til Prusias konungs í Bithyniu, ok vann honum sigr um hríð við aðra konunga, helzt vini Rómverja, en Antiochus konungr tók feginsamliga við sáttarboðum, þó hann hefði nú minna ríki en áðr, með minni áhyggjum; því at þat sáu margir fornir menn, at mikil ríki hafa mikla ánauð með sèr, ok margfaldan háska, hafði ræðismaðrinn nú sigrat hinn ríkasta konung á austrlöndum skjótara en vant var, ok hvarf til Róm, ok var fluttr í borgina í ágætri sigrför, fekk hann ok nafn af landi því, er hann vann, ok var kallaðr hinn „Asíatiski" sem bróðir hans áðr hinn „Afrikanski," fekk ok Publius Scipio, er mest hafði stoðat bróður sinn til farsælligra framferða, virðingar allmiklar at nýu, því at hinir ágætustu censorar, Titus Qvintius Flamininus, er síðan sigraði Macedona, ok Marcus Claudius Marcellus, son Marcellus hins fræga, kusu hann í þriðja sinn at höfðingja eðr formanns ræðismanna, ok var hann 8 árum seinna í þeirri virðingu en hann hafði fengit hana fyrst.

## 15. kapítuli.

## Ákærur.

Nokkuru síðar sýndi þat sik sem optar, er margir miklir menn í fornri öld gættu opt, ok Plutarchus hefr minnzt mjök títt, hve óstyrkr ok lítt stöðugr er allr mannligr vegr, var þá Scipions ætt í alls konar virðingum, ok mikil frægð Corneliu-

ættar, ok Scipio hinn Afrikanski svo mjök tignaðr at engin maðr í frjálsri borg hefr verit meira, ok eigi má vera meiri vegr, nema ríkra konunga, er sjálfir veita sèr hann; en þenna veg hans hinn mikla þoldu eigi öfundarmenn, er jafnan eru nokkrir, ok kom þat fram um síðir, er duldist í hug þeirra, ok brauzt út, voru tveir alþýðutribunar er haldit var at Porcius Cato hinn gamli hefði eggjat fram; var sá grunr af því, at þeir voru litlir vinir, þó Cato sá væri ágætr maðr at mörgu. þeir tribunar stefndu Scipioni hinum Afrikanska um þat, at hann hefði þegit fè af Antiochus konungi, ok eigi látit koma í fèhirzlur. Hann vissi sakleysi sitt ok hlýddi yfirmönnum, er þeir kölluðu hann, ok gekk fram á þing með miklu trausti, ok setti á tölu mikla ok ágæta um þat er hann hafði unnit til hags Rómverjum, ok eigi sèr til ágætis heldr afsökunar; var þar við mikit fjölmenni ok fell því öllu mál hans vel í skap, en tribunarnir hèldu á svari sínu, ok báru á hann margar sakir, ok kærðu hann fast, ok meir fyrir grun en með röksemdum. Annan dag var honum stefnt aptr, ok kom hann at ákveðinni stundu, fylgdu honum þá vinir hans mjök margir, ok gekk hann í gegnum miðjan þingheiminn fram at trönunum, er kallaðar voru, þær voru jafnan á grind fyrir framan dómstól; þögðu þá allir, er hann tók til orða: „Nú minnumst ek þess, Rómverjar, at þessi er sá dagr, er ek fekk ágætan sigr yfir Hannibal ok Pœnum; látum nú af því þrætur fara, ætla ek mèr hèðan upp á Capitolium, ok skulum vèr þar þakka guði

fyrir farsælliga hluti, er þenna dag urðu". Síðan gekk hann þaðan, en allr lýðr fylgdi honum upp á Capitolium ok leiddi hann því næst til allra hofa í borginni, svo at hverju goði yrði þakkat, urðu yfirmenn einir eptir ok þjónar þeirra, en þessi dagr þótti Scipioni beztr allra daga, er hann hafði lifat, þar sem hann fekk slík merki góðvildar af svo mörgum manni, ok ætlaði sèr eigi til meiri frama síðan, ok þótti bezt at láta þannig af sýslunum sjálfr; en sumir ætla hann hafi ásamt látit sèr mislíka óþökk, ok fór at því er mælt er til Linternum ok settist þar. Tribunar kærðu þá stórmennsku hans, er Lucius bróðir hans mátti eigi vera til svara sakir sjúkleika, kom þá fram einn alþýðu tribuni Tiberius Gracchus, er átt hafði óþokka við Scipio hinn Afrikanska, ok tók at sèr mál hans, ok þótti mönnum með ólíkindum, lofaði hann mjök, ok hrakti óvini hans, ok varði ágætliga málit, svo at ræðismenn margir er líkaði illa ákæra þessi, þökkuðu honum síðan mildiliga á almenniligum fundi. Sumir segja at Scipio hafi sent bók áðr hann fór til Linternum til ræðismanna, ok beðit Lucius bróðr sinn leggja fram, hafi verit röksemdir hans, ok þar hafi hann sagt í, at eigi var þat af prettum eðr stórlæti, at hann yfirgæfi þannig þingit, heldr af hinu sama trausti er hann hafði einhvern tíma sýnt fyrri, er nokkr maðr ætlaði at opna fèhirzlur í móti lögum, en þó segja nokkrir at Scipio hinn Asíatiski hafi verit sá er tribunar ákærðu, ok Publius Scipio hinn Afrikanski væri þá í sendiför í Hetruralandi, en komit til borgarinnar, er hann spurði þetta, ok fundit þá bróður sinn dæmdan, ok menn búna til at leiða hann í dýblissu, ok orðit svo reiðr at rekit hafi leiðsögumanninn ok tribuna frá honum með afli, hafi þá Tiberius Gracchus almúga tribuni borit sik upp fyrst um þat, at nú bryti embættislaus maðr tribuna valdit, en látit síðan óvild falla við Scipio, ok haldit með þeim bræðrum, þótt þat líta líkara út, at einn tribuni bryti annars vald,

en embættislaus maðr, ok þá hafi ræðismenn haldit kvöldverð á Capitolium ok lagt þat til, at Scipio hinn Afrikanski skykli gipta Tiberiusi hina yngri dóttr sína, síðan hafi Scipio farit heim ok sagt konu sinni mægðirnar. þat var Æmilia dóttir Paulus hins eldra ræðismanns sem féll við Cannæ, systir Paulus Æmilius sem sigraði Perseus Macedona konung. hafi hún þykkzt við er maðrinn var alþýðu kyns, ok mælt: „eigi átti at gipta dóttur svo móðir væri óspurð,“ ok þó Tiberius Gracchus væri biðill, hefði Scipio verit á því, ok þótti því gaman at svarinu. þó eru tvímæli um allt þetta, því sumir segja, at Cornelia dóttir Scipions giptist eigi Gracchus fyr en at föður sínum önduðum; áttu þau Æmilia aðra dóttur eldri, hennar fekk Publius Cornelius Nasica bræðrungr Scipions.

## 16. kapítuli.

## Dauði Scipions hins Afrikanska.

Publius Scipio hinn Afrikanski átti börn fleiri, dætur eigi nema þær tvær er nefndar eru, svo at þess sè getit, en sonr hans var sveinn sá, er Antiochus konungr hafði tekit ok sent honum síðan. frá honum er ekki sagt annat, en at hann hafi verit prætor ok við fátt eitt brugðinn, hafi hann verit heilsu lítill, ok líkast eigi hafi lifat lengi, en tekit hafi hann sèr at kosningarsyni heldr en faðir hans Scipio hinn yngra, Afrikanska, er kallaðr var Æmilius, því hann var sonr Paulus Æmilius ræðismanns, ok getr í sögu hans, ok varð hinn mesti frægðarmaðr á sínum dögum; hefr Cicero getið um þenna son Scipions hins Afrikanska. Eigi ber mönnum ok saman at öllu um fráfall Scipions hins mikla; veldr þat því, at Rómverjar rituðu þá enn eigi sögur; sumir segja hann hafi dáit í Rómaborg, ok verit þar út hafinn, ok sè merki þess minnistakn við hlið eitt ok þrjár styttur yfir, ok sèu tvær þeirra bræðra Publius ok Lucius, en hin þriðja

sè Ennius skáld, hann var eitt hit fyrsta skáld með Rómverjum, ok þá á dögum; er at sjá sem Cicero hafi fylgt því máli er hann segir: „Kær var Scipioni Afrikanska Ennius vor, ok fylgir hann leiði þeirra bræðra.“ Aðrir hafa sagt — ok eru þeir fleiri — at hann hafi dáit í Linternum, ok verit þar leiddr sem hann hafði fyrir mælt, ok þar hafi verit leiði hans ok mynd yfir, ok hafi sú stytta fallit fyrir veðri.

Hjá Cajetu finnst ok marmaragröf ok koparpottr ok ritat á:

Steig yfir Hannibal,
stað Karthago
tók sá hèr er hulinn;
aska eptir
und' marmara,
lagin þessu leiði.

Eigi stóð honum
Evrópa móti,
eigi Afrika forðum;
má þar sjá
mannlig dæmi,
lykr lítill pottr.

Scipio hinn mikla skorti vetr á hálf sextugan er hann andaðist, at því er flestir segja, vetri áðr enn Hannibal lauk æfi, ok Philopœmen hinn Achæiski var drepinn, sá er þá var hinn þriðji mesti herstjóri í heimi, næstr þeim Hannibal, 170 fyrir Krists burð. Hann var svo frægr af herförum sem nú er sagt ok eigi síðr ágætr heima, sagði hann svo sjálfr, at hann væri þá sízt iðnarlaus, er hann sýndist enga iðn hafa, ok var einn, ok svo var mikill orðstýr hans, at hvar sem hann kom flykktust allir menn þangat at sjá hann, er svo sagt, at stigamenn hafi komit til hans þá hann var í Linternum, at heilsa honum ok sjá hann ok tekit í hönd honum, telr Plutarchus þat til dæma um afl mannkosta, at virðir sèu þeir hjá öllum þjóðum, ok svo mjök, at allir menn ok ólíkir þeim sem kostina hafa, fái þó eigi annars en látit sèr finnast mikils um þá. — Cornelia dóttir hans, er Tiberius Gracchus átti, var hin ágætasta kona, fyrir allra hluta sakir, hennar synir voru þeir Tiberius ok Cajus Gracchus ágætir menn, ok er saga af þeim, en drepnir voru þeir í upphlaupi, þá er þeir vildu

koma jöfnuði á um akralög; lifði Cornelia lengi eptir þá við mikla geðprýði ok vitrleik, ok virt af hverjum manni.

---

## Konungar ok merkismenn uppi, þegar Scipio Afrikanski var borinn.

Demetrius Antigonusson, Demetriussonar borgarbrjóts konungr á Macedoniu.

Seleucus Callinicus Antiochusson Antiochussonar Seleucussonar sigrsæla konungr á Sýrlandi.

Ptolómæus velgjörandi konungr í Ægiptalandi.

Attalus konungr í Pergamo.

Nicomedes veiðimaðr konungr í Bythyniu.

Aratus í Sicyone.

Cleomenes konungr í Lacedemon eptir Agis, sem saga er af.

Fabius Maximus.

Paulus Æmilius, eldri.

Publius Cornelius Scipio eldri.

Marcus Claudius Marcellus, merkiligir herstjórar Rómverja.

Hamilkar þruma faðir Hannibals herstjóra. Pœna. Hannibal var þá ungr.

## Konungar ok merkismenn þá Scipio fèll frá.

Philippus Demetriusson konungr í Macedoniu.

Ptolomæus göfgi konungr í Ægyptalandi.

Seleucus Antiochusson ríka konungr á Sýrlandi.

Prusias Nicomedesson konungr í Bithyniu.

Hannibal, þá gamall.

Evmenes konungr í Pergamo.

Masinissa konungr í Numidiu.

Philopoemen Achæiski, herstjóri Grikkja.

Paulus Æmilius.
Titus Flamininus.
Lucius Scipio hinn Asíatíski.
Cato gamli ok
Scipio Nasica voru frægir höfðingjar með Rómverjum. Scipio Æmilianus þá ungr.
Hyrcanus Jósephsson, ok
Matthathias faðir Makkabæa frægr með Gyðingum.

---

## Athugasemd

um nokkur embættanöfn Rómverja, er finnast í þessari sögu.

1. Ræðismenn (consules) voru tveir. Þeir höfðu hit æðsta herváld í stríði, ok flestar framkvæmdir höfðu þeir á hendi at koma fram ályktunum hins Rómverska ráðs (senatus). Ráðherrarnir (senatores) eða feðrnir (patres, eru hjer ok kallaðir ræðismenn, en sambandit sýnir víðast um hvora talat er.
2. Prætores voru lögmenn Rómverja; þeir höfðu ok hervöld ok landstjórnarvöld undir ræðismönnum.
3. Ædiles (húsameistarar), höfðu umsjón yfir alþjóðligum byggingum; þeir voru ok leikstjórar, ok lögreglustjórar.
4. Alþýðustjórar (tribuni) voru forgöngumenn alþýðu gegn feðrnuum (patres), ok voru þeir friðhelgari en aðrir embættismenn, ok réðu miklu. Hertribunar voru sveitarforingar í hernum.
5. Censor annaðist um fólkstal; hann var ok nokkurs konar yfirlögreglustjóri til at vanda um siðu manna. Til þessa embættis voru ætíð kjörnir hinir vönduðustu menn, ok engir sem ekki höfðu áðr verit ræðismenn.

---

